{Þess íslendska evangeliska}
{Smábóka Félags rit No. 37.}

Um þann

# Luckugéfna Biblíulesara

## Vilhjálm þinn blacka, Reikháfa-hreinsara í Lundún.

(úr donsku).

Herramadur einn í Lundún, Thómsen ad nafni giørdi sér opt ad skyldu, ad loknu sínu dagsverki, ad vitja fátækra í híbýlum þeirra, til í eigin persónu, ad stoda þá naudlídandi, en hugga þá ángurbitnu. Eitt sinn, þá hönum sagt var ad reykháfur hans þyrfti ad hreinsast, ásetti hann siálfur ad fara á fund mans þess, er þad handverk hafdi í stadnum, og lét fara med sér sinn eldsta son Jacob, sem optar hafdi þá luckú, ad fylgja hönum í slíku ferdalagi. Um kvøldid komu þeir ad litlum bæ, hvar sá madur, er reykháfa hreinsadi bjó í litlu undirhúsi þar í bænum. Í því bili þeir geingu nidur í húsid, sagdi Jacob

vid Fødur sinn, ad sér heyrdist einhvor vera ad lesa hátt þar inni; þeir læddust því bádir hægt ad dyrunum, og heyrdu ad pilltur var ad lesa í Biblíunni. Á hurdinni var rifa, í gégnum hvorja þeir sáu konuna og 3 dreingi sitjandi í kríngum ljós, er med gaumgjæfni hlustudu á þad, sem med andakt lesid var. Þegar kapítulinn var búinn, kraup fólkid allt nidur, og fadirinn gjørdi bæn sína hátt, med brennandi andakt. Hra Thómsen komst nú mjøg vid af einfeldni og hita þessarar bænar, og flýtti sér, þegar hún endud var, inn í húsid, kom óvart uppá húsbóndann, tók í hønd hans og mælti: kjæri Vinur! hjartanliga gledur þad mig, ad eg finn ad þú ert andaktugur christinn madur. Eg stód úti fyrir dyrunum og hlustadi á bæn þína. Allir sannchristnir, hvort þeir eru hærra edur lægra standz, eru sem børn eins og sama fødurs. Þaug finna til sama skorts, þurfa jafna nád; og stefna til hins sama Fødurlands. Gud er vor og allra manna Gud og Fadir. Hann lítur med sømu velþóknun yfir hreisi þeirra frómu og fátæku, sem yfir hofgarda og hallir ríkismanna og konúnga. Þín þacklátsemi vid Gud, og ánægja yfir kjørum þínum, var mér lærdómsrík predikun, hvorri eg vildi eg aldrei gleymdi, svo opt sem eg siálfur kém í bænninni fram fyrir nádarstólinn. Eg vil nú standa stundarkorn vid hjá

þér, til að heyra, á hvørn hátt þú øðlaſt hefir þetta ſinnislag.

Húsbóndinn, frá ſér numinn, gat í fyrſtu naumaſt ſvarað orði, þar hann fyrirvarð ſig ſvo mikið, af því þeſſi framandi maður hefði heyrðt á bænagjørð ſína. En herramannſins vinſamliga ávarp hughreyſti hann, og tók frá honum allan ótta. Bað hann hann því og ſon hans að taka ſér ſæti, ſvo framt þeir vildu vera ſvo lítilátir, að ſkaldra við í ſínu veſæla híbýli. Þá þeir vóru niðurſetſtir, fèll Hra Thómsen í furðu yfir þeirri regluſemi og rækſlu, ſem á øllu var í húſinu. Konan, er hafði mikið ſiðſamligt útlit, ſat við borðið og var að ſauma; en 3 ſynir ſátu kríngum hana með kver ſín, og vóru að læra það ſem þeim hafði verið ſett fyrir á ſunnudagsſkólanum. Það furðar mig, ſagði herramaðurinn, hvørnig þið gétið, við það handverk ſem þú hefir, haldið øllum hlutum ſvo hreinum. Það er ekki allaudveldt, ſvaraði Vilhjálmur; við María mín høfum mikla fyrihøfn fyrir því. En með því að þvo allt upp koſtgjæfiliga, gétum við haldið húſinu ſæmiliga hreinu. Þér vitið, góði Herra! að þar verða eins að vera til, þeir ſem reikháfa hreinſa, eins og aðrir handverksmenn; og einn brauðbiti, ſem eg gét ærliga aflað með handverki mínu, ſmakkaſt mér eins vel, að meðfylgjandi Guðs bleſſun, ſem kræſíngar hinna ríku. Það er ſatt, góði vin! ſagði Herramaður-

inn; og hvad enn meira er, ad Guds ótti med ánægjusemi, er stór ábati. Sú sanna farsæld er komin undir ástandi sálar vorrar, en ecki vorum útvortis lífs-högum. Christins mans von um Gudsnád fyllir hjarta hans huggun og gledi, í hvørju ástandi sem hann er. Eptir þetta beiddist Hra Thómsen, ad heyra nockud af Vilhjálms lífs-sögu, og hóf hann þá sem fylgir.

Kjæri Herra! Oldúngis ecki veit eg, og mun líkast til aldrei fá ad vita, hvørjir míuir foreldrar verid hafa. Hid fyrsta sem eg man til mín, er, ad eg var fluttur á eitt erfidis-hús, á landsbæ nockrum, hérum þingmannaleid frá Lundún, hvar eg kom í blaud margra manneskja, hvorra flestar vóru andvaralausar. Þar eg nú var fodur- og módur-laus, skipti sér einginn af ad kénna mér ad lesa Guds-ord, ad finna ad yfirsjónum mínum edur láta mig fara til kyrkju; því sídur ad neinn kéndi mér eitt sálm-vers edur eina bæn. Olst eg svo upp, án allrar uppfrædíngar, ramspilltur ad sinni og sidum. Snemma lærdi eg ad ljúga, blóta og sverja, og þar var einginn synd sú til, sem eg eptir aldri mínum drýgja kunni, er eg ei drýgdi. Einn morgun kalladi umsjónar-madur erfidis-hússins á mig inn í herbergi sitt, og sagdist nú ætla ad setja mig til kénslu hjá reykháfahreinsunar-meistara einum í Lundún, og bætti þeim ordum vid: ádur þú skilur vid hús mitt, vil, eg seigja þér, allt hvad

eg veit um æfi uppruna þinn; það kann að koma þér einhvorntíma að gagni. Kona mín gèck eittsinn út snemma morguns; þegar hún ætlaði að ljúka upp ytsta portinu, varð henni litið eitt-hvað liggja þar úti fyrir. Hún kallaði til mín, og við lukum portinu upp; sáum við þá körfu, yfir hvörja breiddir vóru nockrir léreptsklútar. Nær við tókum þá burt, fundum við barn-únga í körfunni, sem fór að gráta beisklíga, þegar við voktum það. Við gitskuðum á að barnið mundi tilheyra konu nockurri, er fór með svonefnda tösku-leiki, og skömmu áður hafði þar nálægt haldið til í tjaldi, en farið burtu þá nærstliðna nóttu. Við tókum þig svo að ockur, og í frá þeim tíma hefir þú uppeldi haft af sveitinni. Nafnið Vilhjálmur blacki gáfum við þér, vegna þíns dockva yfirlitar. Nú þar sem þú ert orðinn nógu gamall til að vinna þér sjálfur brauð, blýtur þú að fara til annara. Meistarinn sem þig tekur, mun vitja þín snemma á morgun; og eg, fyrir mitt leiti, óska þér, minn son, mik-illrar lucku, hvar sem þú verður í heiminum. Yfir þessari umbreytíngu kjara minna var eg mjög ánægður, jafnvel sú tilhugsan, að eg ætti að verða reykháfa-hreinsari, væri mér ecki alls gèðfeld, samt hlackaði eg til að sleppa út af erfiðis-húsinu. Nærsta morgun kom meistar-inn, og tók mig með sér. Þegar við komum

nálægt borginni, hafdi eg mikid gaman af, ad sjá vagnana, kérrurnar og þá mörgu nýstárligu og falligu hluti, sem báru þar fyrir mig; sem og þær skrautbúnu manneskjur, er frá Lundún komu. En þessar mínar ánægjusemdir hvurfu fljótt, því meistari minn var hardur madur, sem opt straffadi dreingi sína grimmiliga. Eg sem var einn med þeim yngstu þeirra, hlaut ósjaldan ad þola hardar misþirmíngar; og eg held med vissu, ad hefdi ecki verid herdsla í mér bædi af náttúrunni og uppeldismátanum á erfidishúsinu, mundi eg ei hafa lífs afkomist, undan höndum hans. En midt í þessu mínu ástandi, gjördist eg þó, eptir sem eg eldtist, dag frá deigi, ógudligri; svo ad sjálfir mínir andvaralausu félagar og nágrannar, optliga sögdu vid mig: skömm er ad þér, þú ert allt of ógudligur! Allt þad tækifæri sem og hafdi til uppfrædíngar í Christindóminum, var falid í því, ad eg, svo naudugt sem mér var þad, hlaut stundum ad fylgja konu meistarans edur bornunum til kyrkju; undan hvörju eg þó opt kom mér, med því, ad eg af ásettu forsómadi ad þvo mér, og fara í hreint föt á sunnudaga, til þess ad verda ecki þvíngadur ad fara til kyrkjunnar, svo eg ei tapa skyldi fyrir þad, neinu af þeim tíma, er eg brúkadi til spila og annara syndugra skémtana.

Einn morgun, fyrir dag, þegar eg átti ad hreinsa reykháf eins húseigara í stadnum, og

stód uppá mænirnum, ætladi eg ad gjöra þad ad gamni mínu, ad stöckva yfir á næsta húsmænir, til ad hræda kvennfólkid, med því ad slá vendi mínum á þakgluggana, og reka svo upp hljód um leid. En þegar eg ætladi ad stöckva yfir á hitt húsid, skrapp þakstéinninn, á hvörjum eg stód, undan mér, svo eg hrapadi á jördu nidur. Hefdi hús þetta verid jafnhátt, sem önnur í Lundúni, mundi eg án efa ljóstast hafa til dauds; en þó var eg leingi svo eg vissi eckert af mér.

Þegar eg raknadi vid aptur, fann og ad eg var kominn á eitt hospital; mitt höfud var hardla marid og skémt, og annar handleggur minn brotinn. Eg lá svo þar í reckju, fullur geysiliguslu kvalar á sálu og líkama. Æ! sagdi eg vid sjálfan mig, hefdi eg í þetta skipti dáid, hvar mundi eg þá vera nú? Eg hafdi heyrdt talad um himnaríki, en eg dyrfdist ecki ad vænta ad fá ad koma þar inn. Eg hafdi og heyrdt talad um helvíti, og mér fanst eg væri þángad eylífliga fordæmdur. Því til hvörs annars hafdi eg unnid? Þessi þánki plágadi sálu mína, midt í svefnleysinu þær laungu nætur. Eg vildi stundum reyna til ad bidja Gud fyrir mér; en sú hugsan, ad eg, sem svo opt misbrúkad hefdi Guds nafn, og lagt þad vid hégóma, þyrfti aldrei bænheyrslu ad vænta, rak mig alltíd med skélfíngu og ótta til baka.

Eina nótt var sálarángist mín svo stór, ad

eg andvarpadi hárri roddu: guð vertú mér syndara líknsamur! ¦Eg tók orð mín strags aptur midt undir tára flódi. Nei! sagdi eg, eg er stórsyndari og þori einganveginn ad vænta nádar hjá Gudi. Einn fátæklings skómakari, sem lá í nærsta rúmi vid mig og heyrdi á þetta, hrópadi til mín „hjá Gudi er mikil fyrirgéfníng! Jesús Christur er í heiminn kominn, til ad giöra þvílíka syndara sáluhólpna, er finna til, hvad syndin er vidurstyggilig, og bidja hann um miskun og náð. Eg hefi ádur verid jafnstór syndari sem þú, en eg hefi fundid huggun og fyrirgéfníngu. Jesús hrópar til þín sem annara: komid til mín, allir þér sem erfidi drýgid, og þúnga erud þjádir, eg vil ydur endurnæra, og munud þér finna hvíld sálum ydrum! Þó syndir þínar séu blódraudar, þá vill hann gjöra þær snjóhvítar".

Eg svaradi: skyldi þad vera möguligt! Orð þessi eru of fögur, til ad vera sönn. Er ecki Gud of heilagur til ad fyrirgéfa mér glæpi mína? Er eg ecki of stór syndari, til ad vænta nádar fyrir Christum? Ney! svaradi hann; Guds Orð í heil. Ritníngu lofar fridi og náð, sérhvörjum ángurbitnum syndara; því Guds heilagleiki, svo vel sem hans miskunsemi, hefir gjördt sig dýrdliga með Jesú fridþægíngu. Eins og þad, ad hefdir þú ecki hrapad ofan af húsinu, og skadad

þig, þá hefdir þú ei þurft læknarans vid; allteins er þitt, ad ef vér ecki værum andliga sjúkir og sárir, þyrftum vér ei á frelsara ad halda; heilir þurfa ecki læknara, heldur þeir sem sjúkir eru.

Þegar ockur bádum tók nú smátt og smátt ad batna, bad eg þennan nábúa minn (sem Adam hét) mjøg inniliga, ad kénna mér ad lesa í Biblíunni, þar hún seigi svo mikid frá Jesú, og vísi oss veiginn til sáluhjálpar, fyrir hans sakir. Hann var strags fús þar til. Jafnvel þó mér nú fyrst í stad géngi mikid ordugt, þar eg í úngdæmi mínu hafdi, alls eckert tækifæri hast til ad læra þad; samt sem ádur sigradi eg, med minni sterku lyst og óþreytandi ydni, alla torveldni, svo eg á stuttum tíma komst svo lángt, ad eg gat lesid minn kapítula í Biblíunni.

O hvílík gledi var mér þad, nær eg sat og las í þeirri heil. bók, og neitti míns eptirþánka! Aldrei ádur hafdi ög vitad hvad gledi var; því sjálf hrygdin og ángrid yfir syndunum, er lángt æskiligri, enn allar heimsins gladværdir.

Eptir þad ockur var fullbatnad, hlutum vid ad skilja, sem mig tók mikid sárt; einkum af því ad eg fyrir þá skuld, hlaut ad skiljast vid mína kjæru Biblíu. Vid gjørdum þessvegna þann samníng med ockur, ad eg, á hvørjum sunnudags morgni, skyldi snemma koma til hans, til ad læra einn kapítula utanbókar, svo eg gjæti aptur dag=

liga hafi hann yfir á ný heima, med sjálfum mér.

Sú sinnis-umbreyting, sem eg tekid hafdi, merktist strags af mínum fyrri stallbrædrum, sem furdudu sig á, ad eg ecki framar vildi eiga hlut í þeirra lystisemdum og svalli. Þeir sögdu því sín á milli, ad eg væri ordinn ad þeim heilögu, og margir héldu, ad heili minn væri trubladur, sídan eg hrapadi. Nágrannar mínir, sem ádur höfdu sagt, eg væri of-ögudligur, meintu ad eg nú væri ordinn allt um of gudligur. Þeir, svovel sem minn meistari og læri-stallbrædur hlóu ad mér og spottudu mig.

En þegar þeir sáu, ad eg umbar þeirra hád med þolinmædi, og leitadist vid ad sýna þeim allan kjærleika, sem eg orkadi, hættu þeir spottinu. Og eg vona ad sumir þeirra hafi áunnid ævarandi blessun, af þeim góda lærdómi, sem mín lífs tilfelli máttu géfa þeim.

Eg kom á hvorjum sunnudeigi til míns kjæra skómakara, sem lét mig fara med sér til kyrkju, hvar eg, í assidis kima, eyddi mörgum farsælum tíma.

Þetta nádar-medal, samt míns vinar góda dæmi og samtöl, vóru mér til stórrar uppbyggíngar. Eptir það eg fór af hospítalinu, var eg hryggvaskur út af því, ad eg sjálfur gat ecki eignast eina Biblíu. Þessvegna ásetti eg mér,

ad draga alla þá skildínga, sem eg feingi, til muna, svo eg gjæti keypt þessa blessudu bók.

Eptir 6 mánudi lidna hafdi eg dreigid saman hérum Ríkisortsvirdi. Med þessa peninga fór eg til eins bókseljara, og keypti ad honum gamla brúkada Biblíu.

Nú þóktist eg vera ordinn sá luckuligasti madur í heiminum, og notadi mér hvorja frístund, sem eg fékk, til ad lesa í Biblíunni, og eg lofa Gud fyrir þad, ad þetta sama vard og svo dóttur, meistara míns til blessunar.

Þegar lærdóms-ár mín voru nærri 6 enda, dó meistari minn. Nú fékk og meira frelsi, enn ádur. Hér eptir uppkom innbyrdis kjærleiki milli mín og dóttur meistarans, svo vid skommu þar eptir komum saman í hjónaband, og í frá þeim tíma, hofum vid lifad saman, hér á þessum stad. Gud hefir blessad ockur med þremur börnum. Þaug koma ydugliga á sunnudags skólan, og mín hjartans ósk er sú, ad þaug strags á æsku-árum sínum, mættu odlast gott hjarta og gudliga upplýsíngu. Nú sjáid þér, kjæri Herra! hvorsu Gud, allt til þessa dags, hefir yfir mér vakad; hann mun og hér eptir vera og verda minn Gud, sem stjórnar mér, medan eg lifi, huggar mig í mínum dauda, og géfur mér eylífa sælu í odrum heimi.

Herra Thómsen gladdist nú inniliga yfir þessari frásogu, og sagdi vid son sinn, þegar

þeir vóru ó leidinni heim aptur: hér sjáum vid ypparligt dæmi þess, hvørsu Guds-nád, ón alls manngreinar álits, verkar og eflir vesællra syndara sálar-velferd.

O hvørsu ætti þad ad hvetja ockur til, ad brúka þaug stóru hlunnindi, sem Guds gjædska ockur veitt hefir, til ad efla ockar andligu velferd, svo ad þessi vesælings Reykhúsa-hreinsari ecki rísi upp móti ockur ó deigi domsins; þvi þeim sem mikid er veitt, af þeim sama skal og mikils krafist verda.

Prentad í Kaupmannahøfn hiá C. Græbe. 1825.